sagt, at hann var snimma bráþgørr at ǫllum þroska, mikill ok sterkr, ljósjarpr á hár ok fór vel, svarteygr ok nǫkkot nefljótr ok þó skapfelligr í andliti, miþmjór ok herþimikill, ok kominn á sik vel ok enn hermannligasti í viþbragþi ǫllu, hávaþamaþr í skaplyndi ok framgjarn snimma, viþ alt úvæginn ok harþr, skáld mikit ok heldr níþskældr, ok var kallaþr Gunnlaugr ormstunga. Hermundr var þeira vinsælli ok hafþi hǫfþingjabragþ á sér. Ok er Gunnlaugr var fimtán vetra gamall, baþ hann fǫþur sinn fararefnis, ok kvez hann vilja utan fara ok sjá siþu annarra manna. Illugi tók því seinliga ok kvaþ hann eigi mundu góþan þykkja í ǫþrum lǫndum, er hann þóttiz trautt mega sœma viþ hann heima þar. Litlu síþar var þat einn morgin, at Illugi bóndi gekk út ok sá opit útibúr sitt, og váru út lagþir vǫrusekkir sex ok lénur upp lagþar á hesta. Hann varþ reiþr mjǫk. Þá gekk at Gunnlaugr ok mælti: „Ek hefi út látit sekkina.“ Illugi spyrr, því hann gørþi þat. Hann sagþi, at þat skyldi vera fararefni hans. Illugi mælti: „Engi ráþ skalt þú af mér taka ok fara hvergi fyrr en ek vil“, ok kipþi inn vǫrusekkjunum. Gunnlaugr reiþ þá í brott ok kom um kveldit ofan til Borgar og bauþ Þorsteinn honum þar at vera, ok þat þekþiz hann. Gunnlaugr segir Þorsteini, hversu farit hafþi meþ þeim feþgum. Þá bauþ Þorsteinn honum þar at vera þeim stundum, sem hann vildi, ok þar var hann þau misseri ok nam lǫgspeki at Þorsteini ok virþiz þar ǫllum mǫnnum vel. Jafnan skemtu þau sér Gunnlaugr ok Helga at tafli ok lagþi brátt hvárt þeira góþan þokka til annars, sem raunir bar á síþar. Þau váru mjǫk jafnaldrar. Helga var svá fǫgr, at þat er sǫgn fróþra manna, at hon hefþi fegrst kona verit á Íslandi. Hár hennar var svá mikit, at þat mátti vel hylja hana alla, ok svá fagrt sem barit gull, og engi kostr þótti þá slíkr í Borgarfirþi ok víþa annars staþar, sem Helga en fagra var.

Ok einn dag, er menn sátu í stofu at Borg, þa mælti Gunnlaugr: „Einn er sá hlutr í lǫgum, er þú hefir eigi kent mér: at fastna mér konu.“ Þorsteinn segir: „Þat er skamt mál“, ok kendi honum atferli. Þá mælti Gunnlaugr: „Nú skalt vita, hvárt mér hefir af skiliz, ok mun ek nú

taka í hǫnd þér ok láta, sem ek festa mér Helgu, dóttur þína.“ Þorsteinn svarar: „Þarfleysu ætla ek þat vera.“ Gunnlaugr þreif þá þegar í hǫnd honum ok mælti: „Veittu mér nú þetta.“ „Gør sem þú vill, segir Þorsteinn, en þat skulu þeir vita, er hjá eru, at þat er sem úmælt sé, ok þessu skulu eigi undirmál fylgja.“ Síþan fastnaþi Gunnlaugr sér Helgu ok frétti Þorstein, hvárt þetta mætti nýta. Hann kvaþ vel svá vera mega, ok varþ mǫnnum at þessu mikit gaman, þeim er viþ váru staddir.

Ǫnundr hét maþr, er bjó suþr at Mosfelli; hann var auþigr maþr at fé ok hafþi goþorþ suþr þar ok var kvángaþr maþr, ok hét Geirný kona hans, Gnúpsdóttir Molda-Gnúpssonar, er nam suþr Grindavík. Þeira synir váru þeir Hrafn ok Þórarinn ok Eyvindr. Allir váru þeir efniligir menn, ok þó var Hrafn fyrir þeim í hvívetna. Hann var mikill ok sterkr ok manna ásjáligastr, skáld mikit. Ok er hann var þroskaþr, fór hann landa á milli ok fórz vel. Þá bjoggu suþr á Hjalla í Ǫlfusi þeir Þóroddr enn spaki ok Skapti, son hans; Þóroddr var Eyvindarson; Skapti var þá lǫgsǫgumaþr á Íslandi. Móþir Skapta var Rannveig, dóttir Gnúps, Molda-Gnúpssonar, ok váru þeir systrasynir at frændsemi, Skapti ok Ǫnundar synir, ok var þar mikil vinátta meþ frændsemi. Þá bjó út á Rauþamel Þorfinnr Selþórisson ok átti sjau sonu, ok váru allir efniligir; þrír hétu svá: Þorgils ok Eyvindr ok Þórir, ok váru þeir mestir menn út þangat. Þessir menn eru nefndir ok váru allir uppi samtíþa.

**Kap. 4.** Þessu næst urþu þau tíþindi, er bezt hafa orþit hér á Íslandi, at landit varþ alt kristit, ok alt fólk hafnaþi fornum átrúnaþi. Gunnlaugr ormstunga, er fyrr var frá sagt, var nú ýmist at Borg meþ Þorsteini eþa heima meþ feþr sínum á Gilsbakka þrjá vetr, ok var hann þá átján vetra gamall, ok samþiz þá mikit. Maþr hét Þorkell ok var kallaþr svartr, heimamaþr Illuga ok frændi ok hafþi þar upp vaxit. Honum tœmþiz arfr norþr í Vatzdal í Ási, ok beiddi hann Gunnlaug at fara meþ sér, ok þat gørþi hann, ok ríþa norþr tveir saman í Ás ok greiddu þeir féit af hǫndum, er varþveittu, meþ atgǫngu Gunnlaugs.

En er þeir riþu norþan, gistu þeir í Grímstungum at auþigs bónda, er þar bjó. Ok um morgininn tók smalamaþr hest þeira ok reiþ, ok var þá sveittr mjǫk, er þeir fengu náet. Gunnlaugr laust smalamann meþ breiþoxi í úvit. Bóndi vildi eigi svá búit hafa ok baþ bœta fyrir. Gunnlaugr bauþ mǫrk; bónda þótti þat oflítit. Gunnlaugr kvaþ þá vísu:

1. Mǫrk bauþk mundangs sterkiom
manne — teygiask hranna —
grásímna — skalt — góma,
— glóþbýter þat nýta!
iþrask mont, ef yþrom
afráþs Fróþa ór sióþe
lætr eyþanda líþa
linds samhaga kindar.

Þessi varþ sætt þeira, sem Gunnlaugr bauþ, ok þeir skilþu viþ svá búit.

Ok litlu síþar beiddi Gunnlaugr fǫþur sinn utanferþar í ǫþru sinni. Illugi segir: „Nú skal vera sem þú vill; hefir þú nú samit þik ór því sem var.“ Reiþ Illugi þá heiman ok keypti skip hálft til handa Gunnlaugi, er uppi stóþ í Gufárósi at þeim manni, er Auþun hét, ok var kallaþr festargramr. [Þessi Auþun enn sami vildi eigi utan flytja sonu Ósvífs ens gamla eptir víg Kjartans Ólásfssonar, sem segir í Laxdœla sǫgu, ok varþ Gunnlaugr þó síþar en þetta.] Ok er Illugi kom heim, þakkar Gunnlaugr honum vel. Þorkell svarti réz til ferþar meþ honum, ok var fyrr fluttr varnaþr þeira til skips en Gunnlaugr kœmi; hann var at Borg, meþan þeir bjogguz skipit, ok þótti skemtiligra at tala viþ Helgu en vera í starfi meþ kaupmǫnnum. Einn dag frétti Þorsteinn Gunnlaug, ef hann vildi ríþa meþ honum til hrossa hans upp í Langavatzdal. Gunnlaugr kvez þat vilja. Nú ríþa þeir báþir samt þar til er þeir koma til selja Þorsteins, er heita á Þorgilsstǫþum, ok þar váru stóþhross, er Þorsteinn átti, fjogur saman, ok váru rauþ at lit. En hestrinn var vænligr ok lítt reyndr. Þorsteinn bauþ at gefa Gunnlaugi hrossin; en hann kvez þá eigi hrossa þurfa, er hann ætlaþi at sigla. Ok þá riþu

þeir til annarra hrossa; var þar hestr grár meþ fjórum merum, ok var sá beztr í Borgarfirþi, ok bauþ þorsteinn Gunnlaugi at þiggja þann. Gunnlaugr svarar: „Eigi vil ek þenna heldr en hinn; eþa því býþr þú mér eigi þat, er ek vil þiggja?“ „Hvat er þat?“ segir þorsteinn. „Helga, dóttir þín“, segir Gunnlaugr. „Eigi mun þat svá skjótt ráþaz“, segir þorsteinn ok tók annat mál, ok ríþa heimleiþis ofan meþ Langá. þá mælti Gunnlaugr: „Vita vil ek, hverju þú vill mér til svara um bónorþit viþ Helgu, dóttur þína.“ þorsteinn svarar: „Eigi gef ek gaum at hégóma þínum.“ Gunnlaugr mælti: „þetta er alhugi minn, en eigi hégómi, en þú munt vita, hverju þú vill svara.“ þorsteinn svarar: „Vita skyldir þú, hvat þú vildir. Ertu ei ráþinn til utanferþar? ok lætr þó sem þú skylir biþja þér konu? þá er þat ok eigi jafnræþi meþ ykkr Helgu, meþan þú ert úráþinn, ok mun því ekki verþa á litit.“ Gunnlaugr mælti: „Hvar ætlar þú til um gjaforþit dóttur þinnar, ef þú vill eigi gipta syni Illuga ens svarta? eþa hverir eru þeir hér í Borgarfirþi, at meira háttar sé en hann?“ þorsteinn svarar: „Ekki fer ek í mannjǫfnuþ, værir þú slíkr maþr sem faþir þinn, þá mundi þér ei frá vísat.“ Gunnlaugr mælti: „Hverjum vill þú heldr gipta hana hér í Borgarfirþi en mér?“ þorsteinn svarar: „Gott er hér mannval. þorfinnr at Rauþamel á sér sjau sonu vel menta, ok má slíks eigi mun gøra mikin.“ Gunnlaugr svarar: „Hvárgi þeira, þorfinnz né Ǫnundar, er jafnmenni fǫþur míns, því at þik skortir sýnt viþ hann. Eþa hvat hefir þú þar í mót, er hann deildi kappi viþ þorgrím Kjallaksson?“ þorsteinn svarar: „Ek støkþa Steinari í brott, syni Ǫnundar sjóna, ok þótti þat þá heldr mikilræþi.“ Gunnlaugr svarar: „Egils nauztu at því, fǫþur þíns, enda mun þat fám einum mǫnnum endaz vel at synja mér mægþar.“ (þorsteinn svarar: „Hafþu í frammi kúgan viþ þá uppi viþ fjǫllin, en þat kømr þér fyrir ekki hér út á Mýrunum.“) Um kveldit koma þeir heim; eptir um morgininn ríþr Gunnlaugr upp á Gilsbakka ok baþ fǫþur sinn ríþa til kvánbœna meþ sér út til Borgar. Illugi svarar: „þú ert úráþinn maþr; ert ráþinn til utanferþar, en lætr nú sem þú skylir standa í kvánbœnum, ok

veit ek, at þorsteini er ekki slíkt at skapi.“ Gunnlaugr mælti: „Ek ætla at fara alt at líku, ok líkar mér ekki, nema þú fylgir mér.“ Síþan ferr Illugi viþ tólfta mann ofan til Borgar, ok tók þorsteinn viþ honum allvel. Um morgininn eptir talaþi Illugi viþ þorstein: „Ek vil tala viþ þik ok Gunnlaugr.“ þorsteinn mælti: „Gǫngum upp á brekkuna ok tǫlum þar;“ ok svá gørþu þeir. þá mælti Illugi: „Gunnlaugr, frændi minn, kvez hafa vakit bónorþ viþ þik fyrir sína hǫnd, at biþja Helgu, dóttur þinnar; nú vil ek vita, hvern staþ eiga skal málit. Er þér kunnig ætt hans ok fjáreign; þar skal ok hvárki til spara af minni hendi staþfestu né manna forráþ, ef þá er nær en áþr.“ þorsteinn svarar: „þat eitt finn ek Gunnlaugi, syni þínum, at hann er úráþinn; en ef hann væri þér líkr í skaplyndi, þá munda ek lítt seinka þessu.“ Illugi svarar: „þetta mun okkr verþa at sundrþykki, ef þú synjar okkr feþgum jafnræþis.“ þorsteinn mælti: „Fyrir orþ þín ok vingan okkra skal Helga vera heitkona Gunnlaugs, en eigi festarkona, ok bíþa þrjá vetr; en Gunnlaugr skal fara utan ok semja sik eptir siþ annarra manna; en ek skal lauss allra mála, ef hann kømr eigi þá út, en mér virþiz eigi skaplyndi hans.“ Ok viþ þetta skilja þeir; ríþr Illugi heim, en Gunnlaugr til skips, ok gaf honum brátt byr. Sigldu þeir í haf ok kómu skipi sínu viþ Noreg ok sigldu inn eptir þrándheimi til Niþaróss ok lǫgþu þar til lægis skipinu ok skipuþu upp.

**Kap. 5.** þá réþ Eiríkr jarl Hákonarson fyrir Noregi ok Sveinn, bróþir hans. Eiríkr jarl hafþi þá atsetu at Hlǫþum á fǫþurleifþ sinni ok var ríkr hǫfþingi. Skúli þorsteinsson var þá meþ jarli ok var hirþmaþr hans ok vel metinn. þat er sagt, at þeir Gunnlaugr ok Auþun festargramr gengu meþ tólf menn inn á Hlaþir. Gunnlaugr var svá búinn, at hann var í grám kyrtli ok hvítum leistabrókum. Sull hafþi hann á fœti niþri á ristinni, ok fell ór blóþ ok vágr, er hann gekk. Meþ þessum búningi gekk hann fyrir jarl ok kvaddi hann vel. Jarl kendi Auþun ok spurþi hann tíþinda af Íslandi; hann sagþi slík sem váru. Jarl spurþi Gunnlaug, hverr hann væri, en hann sagþi honum nafn sitt ok svá ætt. Jarl mælti: „Skúli þorsteins-

son, hvat manna er þessi á Íslandi?" „Herra, segir hann, fagna þú honum vel, þvíat hann er ens bezta mannz son, Illuga svarta af Gilsbakka, ok fóstbróþir minn." Jarl mælti: „Hvat er fœti þínum, Íslendingr?" Gunnlaugr svarar: „Sullr er á, herra", sagþi hann. „Ok gengr þú þó ekki haltr?" jarl segir. Gunnlaugr svarar: „Ei skal ek haltr ganga, meþan jafnlangir eru báþir.". Þá mælti hirþmaþr, er Þórarinn hét: „Þessi rembiz mikit, Íslendingrinn, ok væri vel, at vér freistaþim hans nǫkkot."

(Gunnlaugr leit viþ honum ok mælti:

Hirþmaþr es einn,
sá's einkar meinn;
trúeþ hǫ́nom vart,
hann's illr ok svartr.)

Þá vildi Þórarinn grípa til øxar. Jarl mælti: „Lát vera kyrt, segir hann; ekki skulu menn gefa at slíku gaum; eþa hversu gamall maþr ertu, Íslendingr?" Gunnlaugr svarar: „Ek em átján vetra", segir hann. „Þat læt ek um mælt, segir jarl, at þú verþir ei annarra átján." Gunnlaugr mælti: „Biþ mér øngra forbœna, jarl!" „Hvat segir þú nú, Íslendingr?" segir jarl. Gunnlaugr svarar: „Svá sem mér þótti vera eiga, at þú bæþir mér øngra forbœna; en biþit yþr heldr sjálfum haldkvæmri bœna." „Hverra þá?" segir jarl. „At þú fengir ei slíkan dauþa, sem faþir þinn Hákon jarl." Jarl setti dreyrrauþan ok mælti: „Hafit hendr á fóli þessu!" Þá gekk Skúli fyrir jarl ok mælti: „Gørit fyrir mín orþ, jarl, ok gefit manninum griþ, ok fari hann í brott." Jarl mælti: „Verþi hann í brottu þá sem skjótast, ok komi aldri síþan í mitt ríki, ef hann vill griþin hafa." Skúli gekk út meþ Gunnlaugi ok ofan á bryggjur. Þar var Englandzfar, albúit til útlátz; þar kom Skúli Gunnlaugi í ok Þorkatli, frænda hans; en Gunnlaugr fekk Auþuni skip sitt til varþveizlu ok fé þat er hann hafþi eigi meþ sér. Nú sigla þeir Gunnlaugr í Englandzhaf ok kómu um haustit suþr viþ Lundúnabryggjur ok réþu þar til hlunnz skipi sínu.

**Kap. 6.** Þá réþ fyrir Englandi Aþalráþr konungr Játgeirsson ok var góþr hǫfþingi; hann sat þá vestr í Lun-

dúnum. [Ein var tunga í Englandi ok Noregi, aþr Vilhjálmr bastarþr vann England. En þaþan af gekk í Englandi valska, er hann var þaþan kynjaþr.] Gunnlaugr gekk brátt fyrir konung ok kvaddi hann. Konungr spurþi, hvaþan af lǫndum hann væri. Gunnlaugr svarar sem var; „en þó hefi ek sótt, herra, á yþvarn fund um langan veg, at ek hefi kvæþi ort um yþr, ok vilda ek, at þér hlýddit.“ Konungr kvaþ svá vera skulu. Gunnlaugr flutti kvæþit vel ok skǫruliga; en þetta er stefit í kvæþinu:

2. Herr getr allr ens ǫrva
Englands, sem goþs, þengels;
ætt lýtr grams ok gumna
gunnbráþs Aþalráþe.

Konungr þakkaþi honum kvæþit ok gaf honum í bragarlaun skikkju af skarlati, samdregna enum beztum skinnum ok hlaþbúna í skaut niþr, ok gørþi hann hirþmann sinn, ok var Gunnlaugr meþ konungi um vetrinn. Ok einn dag mœtti Gunnlaugr þrim mǫnnum á stræti, ok hét sá Þorgrímr, er fyrir þeim var; hann var mikill ok sterkr. Hann mælti: „Norþmaþr, segir hann, sel mér fé nǫkkot at láni.“ Gunnlaugr svarar: „Ekki mun mér þat varligt, at selja þér úkunnum manni.“ Hann svarar: „Ek skal gjalda þér at nefndum degi.“ „Þá skal á þat hætta“, segir Gunnlaugr. Síþan seldi hann honum féit. Ok litlu síþar fann Gunnlaugr konung ok segir honum fjárlánit. Konungr mælti: „Nú hefir þér lítt tekiz til; hann er enn versti maþr ok ránsmaþr mikill ok víkingr; eigum ekki viþ hann, en ek mun fá þér fé jafnmikit.“ Gunnlaugr svarar: „Illa er oss farit, hirþmǫnnum yþrum; gǫngum á saklausa menn, en látum slíka sitja yfir váru, ok skal þat verþa aldri.“ Litlu síþar hitti hann Þórgrím ok heimti fé sitt at honum; hann kvez ekki gjalda mundu. Gunnlaugr kvaþ þá vísu:

3. Meþalráþ es þér, Móþe
málma galdrs, at halda
— Att hafeþ ér viþ prettom
oddrióþ — fyr mér hoddom.
Vita mátt hitt, at heitek

— hér sék at því fœre;
þat fekksk nafn af nøkkve —
naþrstunga — mér ungom.

„Nú vil ek bjóþa þér lǫg, segir Gunnlaugr, at þú gjaldir mér fé mitt, eþa gakk á hólm viþ mik ella á þriggja nátta fresti.“ Víkingrinn hló ok mælti: „Til þessa hefir engi orþit fyrr, at skora mér á hólm, svá skarþan hlut sem margr hefir fyrir mér borit, ok em ek þess albúinn;“ ok viþ þat skilþu þeir. Gunnlaugr segir konungi, hversu farit hefir meþ þeim. Konungr segir: „Nú er úvænt efni komit, þvíat þessi maþr deyfir hvert járn. Nú skaltu mínum ráþum fram fara, Gunnlaugr, kvaþ konungr; hér er sverþ, er ek vil gefa þér, ok meþ þessu skaltu vega, en sýn honum hitt, er þú átt áþr.“ Gunnlaugr þakkaþi honum vel. Ok er þeir váru til hólms komnir, spurþi Þorgrímr, hversu sverþ þat væri, er hann ætlaþi at vega meþ. Gunnlaugr sýnir honum ok bregþr; lykkju á meþalkaflan konungsnaut ok dregr á hǫnd sér. Víkingrinn mælti, er hann sá lítit sverþit: „Ekki hræþumz ek þat vápn“, segir hann, ok hjó til Gunnlaugs meþ sverþi ok af mjǫk svá skjǫldinn. Gunnlaugr hjó þegar í mót meþ konungsnaut, en víkingrinn var vápnlauss fyrir ok hugþi, at hann hefþi et sama sverþ, en Gunnlaugr hjó hann þegar banahǫgg. Konungr þakkaþi honum verkit, ok af þessu fekk hann mikla frægþ í Englandi ok víþa annars staþar. Um várit, er skip gengu milli landa, þá baþ Gunnlaugr Aþalráþ konung orlofs at sigla. Konungr spyrr Gunnlaug, hvert hann vildi sigla. Gunnlaugr segir: „Ek vil efna þat, er ek hefi heitit ok ætlat“, ok kvaþ þá vísu:

4. Hlýt ek vistar vitia,
viggs, dǫglinga þriggia,
því hefk hreytandom heitet,
hiarls ok tveggia iarla;
hverf ek aptr, áþr arfe
auþveites gefr rauþan
ormabeþ fyr ermar
oddgefnar mér stefno.

„Svá skal vera, skáld“, segir konungr ok gaf honum hring, er stóþ sjau aura; „en því skaltu heita mér, at koma aptr at ǫþru hausti, þvíat ek vil ei láta þik sakir íþrótta þinna ok vaskleiks.

**Kap. 7.** Nú siglir Gunnlaugr af Englandi nórþr til Dyflinnar. Þá réþ þar fyrir Sigtryggr konungr, son Óláfs kvarans ok Kormlaþar dróttningar. Hann hafþi þá skamma stund ríki ráþit. Gunnlaugr gekk brátt fyrir konunginn ok kvaddi hann vel. Konungr tók honum sœmiliga. Gunnlaugr mælti: „Kvæþi hefi ek at fœra yþr, herra, ok vilda ek hljóþ fá.“ Konungr mælti: „Ekki hafa menn til þess orþit, at fœra mér kvæþi, ok skal at vísu hlýþa.“ Gunnlaugr kvaþ þá drápu, ok er þetta stefit í:

5. Elr Svǫ́ro skæ
Sigtryggr viþ hræ.

Ok þetta er þar meþ:

6. Kann'k máls of skil,
hvern'k mæra vil
konongmanna kon:
hann's Kvarans son;
monat gramr viþ mik
— Venr hann giǫfle sik,
þess mon grepp vara —
gollhring spara.
Sege siklingr mér,
ef hann heyrþe sér
dýrlegra brag,
þat's drǫ́polag.

Konungrinn þakkaþi honum kvæþit ok kallaþi til sín féhirþi sinn ok mælti svá: „Hverju skal ek launa kvæþi þetta?“ „Hverju vili þér, herra?“ segir hann. „Hversu er launat, segir konungr, ef ek gef honum knǫrru tvá?“ Féhirþirinn svaraþi: „Ofmikit er þat, herra; aþrir hǫfþingjar gefa gripi góþa at bragarlaunum, sverþ góþ eþa gullhringa.“ Þá gaf konungr honum klæþi sín nýskorin af skarlati: kyrtil hlaþbúinn ok skikkju meþ ágætum skinnum, ok

gullhring, er stóþ mǫrk. Gunnlaugr þakkaþi konungi gjafirnar ok dvalþiz þar litla hríþ ok fór þaþan til Orkneyja.

Þá réþ fyrir Orkneyjum Sigurþr jarl Hlǫþvisson. Gunnlaugr kvaddi jarl ok kvez hafa kvæþi at fœra honum. Jarl kvez vilja hlýþa kvæþi hans ok sagþi hann vera sœmiligan mann. Gunnlaugr flutti kvæþit, ok var þat flokkr ok vel ort, ok gaf jarl honum øxi mikla silfrrekna at kvæþislaunum ok bauþ honum meþ sér at vera. Gunnlaugr þakkaþi jarli gjǫfina ok boþit, en sagþiz verþa at fara austr til Svíþjóþar, ok gekk síþan á skip meþ kaupmǫnnum þeim er sigldu til Noregs, ok kómu um haustit austr í Vík viþ Konungahellu. Þaþan fekk Gunnlaugr sér leiþtoga upp í Gautland et vestra, ok kómu fram í kaupstaþ þeim er í Skǫrum heitir. Þar réþ fyrir jarl sá er Sigurþr hét ok var heldr viþ aldr. Gunnlaugr gekk fyrir hann ok kvaddi hann ok kvaz kvæþi hafa ort um hann. Jarl gaf hljóþ til. Gunnlaugr kvaþ þá kvæþit, ok var þat flokkr. Jarl þakkaþi honum ok bauþ honum meþ sér at vera um vetrinn, ok þat þá Gunnlaugr. Sigurþr jarl hafþi jólaboþ mikit. Ok á atfangadag jóla koma þar tólf menn norþan af Noregi, sendimenn Eiríks jarls, ok fóru meþ fégjǫfum til Sigurþar jarls. Jarl fagnaþi þeim vel ok skipaþi hjá Gunnlaugi um jólin. Þar var ǫlteiti mikil. Gautar tǫluþu um, at jarl væri engi meiri en Sigurþr, en norrœnum mǫnnum þótti Eiríkr jarl miklu framar. Ok um þetta þrættu þeir ok tóku hvárirtveggju Gunnlaug til órskurþar. Gunnlaugr kvaþ þá vísu:

7. Segeþ ér frá iarle,
oddfeimo stafer, þeima:
hann hefer litnar hranna
— hárr karl es sá — bǫ́ror.
Sigrreyner hefer sénar
siálfr í miklo giálfre
austrs fyr unnar heste
Eiríkr bláar fleire.

Hvárirtveggju urþu vel viþ órskurþinn; en norrœnir menn fóru aptr á bak jólum meþ gjǫfum.

**Kap. 8.** Þá réþ fyrir Svíþjóþ Óláfr konungr sœnski, son Eiríks konungs ens sigrsæla ok Sigríþar stórráþu, dóttur Skǫglar-Tosta; hann var ríkr konungr ok ágætr, metnaþarmaþr mikill. Gunnlaugr kom til Uppsala; þá var þing þeira í Svíþjóþ um várit, ok er hann náir konungsfundi, kvaddi hann konung. Konungr spyrr, hverr hann væri. Hann kvez vera íslenzkr maþr. Þar var þá meþ Óláfi konungi Hrafn Ǫnundarson. Konungr mælti: „Hrafn, segir hann, hvat manna er þessi á Íslandi?“ Maþr stóþ upp á enn úœþra bekk ok gekk fyrir konung. „Herra, segir hann, hann er ennar beztu ættar ok sjálfr enn vaskasti maþr.“ „Fari hann þá ok siti hjá þér“, sagþi konungr. Gunnlaugr mælti: „Kvæþi hefi ek ort at fœra yþr, herra, ok vilda ek, at þér hlýddit.“ Konungr segir: „Ekki er tóm til yfir at sitja yfir kvæþum.“ Þeir tóku tal sín á milli, Gunnlaugr ok Hrafn, ok segir hvárr frá ferþum sínum. Hrafn kvez farit hafa áþr um sumarit af Íslandi til Noregs, en á ǫndverþum vetri af Noregi til Svíþjóþar. Gørþiz þá vel meþ þeim. Ok einn dag, er liþit var þingit, váru þeir báþir fyrir konungi, Gunnlaugr ok Hrafn. Þá mælti Gunnlaugr: „Vilda ek, at þér hlýddit kvæþinu, herra.“ „Þat má nú vel“, segir konungr. „Nú vil ek flytja mitt kvæþi, segir Hrafn, ef þér vilit svá, herra.“ „Þat má vel“, segir konungr. „Þá vil ek fyrr, segir Gunnlaugr, ef þér vilit svá herra.“ „Ek á fyrr at flytja, segir Hrafn, þvíat ek kom fyrr til yþvar.“ Gunnlaugr svarar: „Hvar kómu okkrir feþr þess, at minn faþir var eptirbátr þíns fǫþur? hvar nema allz hvergi? skal ok svá meþ okkr.“ „Gørum þá kurteisi, segir Hrafn, at fœra þetta ei í kappmæli, ok látum konung ráþa.“ Konungr mælti: „Gunnlaugr skal fyrr flytja, fyrir því honum eirir verr, ef hann hefir eigi sitt mál.“ Þá kvaþ Gunnlaugr drápuna, ok er hann hafþi kveþit, mælti Oláfr konungr: „Hrafn, segir hann, hversu er kvæþit ort?“ „Vel, herra, sagþi hann, þat er stórort kvæþi ok úfagrt, sem Gunnlaugr er sjálfr í skaplyndi.“ „Nú skaltu flytja þitt kvæþi, Hrafn“, segir konungr. Hann gørþi svá. Ok er lokit var, mælti konungr: „Gunnlaugr, segir hann, hversu er kvæþit ort?“ Gunnlaugr svarar: „Vel, herra,

segir hann; þetta er fagrt kvæþi, sem Hrafn er sjálfr, ok yfirbragþslítit; hví ortir þú flokk um konunginn? þótti þér hann eigi drápu verþr?" Hrafn svarar: „Tǫlum þetta ei lengr, segir hann, til mun verþa tekit, þó at síþar verþi;" ok skilþu viþ svá búit tal sitt. Litlu síþar gerþiz Hrafn hirþmaþr Óláfs konungs ok baþ hann orlofs til utanferþar; konungr veitti honum þat. Síþan, er hann var búinn, mælti hann til Gunnlaugs: „Lokit skal okkarri vináttu, er þú vildir hrópa mik hér fyrir hǫfþingjum; nú skal ek einhverju sinni eigi minnr vanvirþa þik, en þú vildir mik hér." „Ekki hryggja mik hót þín, segir Gunnlaugr, ok hvergi munu vit þar koma, at ek sé minna virþr en þú." Óláfr konungr gaf Hrafni góþar gjafir at skilnaþi, ok fór hann brott.

Hrafn kom austan um várit til þrándheims ok bjó skip sitt ok fór utan um sumarit til Íslandz, ok kom skipi sínu í Leiruvág fyrir norþan Heiþi, ok urþu honum fegnir frændr ok vinir, ok var Hrafn heima þann vetr meþ fǫþur sínum. En um sumarit á þingi funduz þeir frændr, Skapti lǫgsǫgumaþr ok Skáld-Hrafn. þá mælti Hrafn: „þitt fullting vilda ek hafa um kvánbœn viþ þorstein Egilsson, at biþja Helgu, dóttur hans." Skapti svarar: „Er hon eigi áþr heitkona Gunnlaugs ormstungu?" Hrafn mælti: „Er eigi liþin sú stefna nú, segir hann, sem mælt var meþ þeim? enda er nú miklu meiri hans ofsi, en hann muni þessa gá." Skapti svarar: „Gør þá sem þú vill." Síþan gengu þeir fjǫlmennir til búþar þorsteins; hann fagnaþi þeim vel. Skapti mælti: „Hrafn, frændi minn, vill fá Helgu, dóttur þinnar, því at þér er kunnig ætt hans, auþr ok frænda afli mikill ok vina." þorsteinn svarar: „Hon er áþr heitkona Gunnlaugs, ok vil ek enda ǫll mál viþ hann." Skapti mælti: „Eru eigi liþnir þeir þrír vetr, er til váru nefndir meþ ykkr?" þorsteinn svarar: „En er eigi liþit sumarit, ok má hann enn út koma í sumar." Skapti mælti: „Hverja ván skulum vér þá eiga þessa máls, ef hann kømr eigi til?" þorsteinn mælti: „Hér komum vér allir annat sumar, ok má þá sjá, hvat líkligast þykkir, en ekki tjóar þetta nú at mæla." Ok viþ þat skilþu þeir ok riþu heim af þingi.

Ekki fór þetta leynt, at Hrafn baþ Helgu, heitkonu Gunnlaugs, ef hann kœmi eigi út á því sumri. Ok annat sumar á þingi fluttu þeir Skapti bónorþit ákafliga ok kváþu þeir Þorstein lausan allra mála viþ Gunnlaug. Þorsteinn svarar: „Ek á fár dœtr fyrir at sjá ok vilda ek gjarna, at þat yrþi eigi at rógi; nú vil ek finna fyrst Illuga svarta", ok svá gørþi hann. Ok er þeir mœttuz, þá mælti Þorsteinn: „Þykki þér ek lauss allra mála viþ Gunnlaug, son þinn?" Illugi svarar: „Svá er mælt, segir hann, ef þú vill, ok kann ek hér nú fátt til at leggja, er ek veit eigi gørla efni Gunnlaugs." Þorsteinn gekk þá til Skapta ok keyptu þeir svá, at boþ skyldi vera nær vetrnóttum at Borg hjá Þorsteini, ef Gunnlaugr kœmi eigi út, en Þorsteinn lauss mála viþ Hrafn, ef Gunnlaugr kœmi til ok vitjaþi málanna. Eptir þat riþu menn heim af þingi, ok frestaþiz koma Gunnlaugs, en Helga hugþi allilt til ráþanna.

**Kap. 9.** Nú er at segja frá Gunnlaugi, at hann fór af Svíþjóþu þat sumar til Englandz, er Hrafn fór til Íslandz, ok þá gjafir af Óláfi konungi at skilnaþi. Aþalráþr konungr tók vel viþ Gunnlaugi, ok var hann meþ honum um vetrinn meþ góþri sœmþ. Í þenna tíma réþ fyrir Danmǫrku Knútr konungr Sveinsson ok hafþi nýtekit viþ fǫþurleifþ sinni, ok heitaþiz jafnan at berjaz til Englandz, fyrir þat at Sveinn konungr, faþir hans, hafþi unnit mikit ríki í Englandi, áþr hann andaþiz vestr þar, ok var sá hǫfþingi fyrir, er Hemingr hét, ok var son Strútharaldz, en bróþir Sigvalda jarls, ok helt hann þat ríki undir Knút konung, er Sveinn konungr hafþi unnit áþr. Um sumarit baþ Gunnlaugr sér orlofs til brottferþar. Konungr segir: „Ei sómir þér at fara frá mér til slíks úfriþar, sem nú horfir hér í Englandi, þar sem þú ert minn hirþmaþr." Gunnlaugr mælti: „Þér skulut ráþa, en gefit mér orlof at sumri til brottferþar, ef Danir koma eigi." (Konungr svarar: „Sjám vit þá." Nú leiþ þat sumar ok vetrinn eptir, ok kómu Danir eigi.) Ok eptir miþsumar fekk Gunnlaugr orlof ok fór austr til Noregs ok fann Eirík jarl í Þrándheimi at Hlǫþum; tók jarl honum þá vel ok bauþ honum meþ sér at vera. Gunnlaugr þakkar jarli boþit, en kvez

eiga þá skylt ørindi til Íslandz at vitja festarmeyjar sinnar. Jarl mælti: „Nú eru ǫll skip í brottu, þau er til Íslandz ætla.“ Þá mælti hirþmaþr einn: „Hér lá Hallfreþr vandræþaskáld út undir Agþanesi í gær.“ Jarl segir: „Svá má vera; hann sigldi héþan fyrir þrim nóttum.“ Eiríkr jarl lét þá flytja Gunnlaug út til skips; Hallfreþr tók viþ honum, ok gaf þegar byr undan landi, ok váru vel kátir. Þat var síþ sumars. Hallfreþr mælti til Gunnlaugs: „Hefir þú frétt bónorþit Hrafns Ǫnundarsonar viþ Helgu ena vænu?“ Gunnlaugr kvez frétt hafa ok þó úgørla. Hallfreþr segir þá slíkt sem hann vissi af, ok þat meþ, at þat mæltu margir, at Hrafn væri ei úhraustari en Gunnlaugr. Þá kvaþ Gunnlaugr vísu:

8. Rœkek lítt, þótt leike,
— Létt veþr es nú — þéttan
austanvindr at andre
andness, viko þessa;
meir siámk hitt, en hæro
hoddstríþande bíþet,
orþ, at eige verþak
iafnrǫskr taleþr Hrafne.

Hallfreþr mælti þá: „Þyrfti, félagi, at þér veitti betr málin viþ Hrafn en mér. Ek kom skipi mínu í Leiruvág fyrir fám vetrum, ok átta ek at gjalda hálfa mǫrk silfrs heimamanni Hrafns ok helt ek því fyrir honum; en Hrafn reiþ til meþ fjóra tigu manna ok hjó strengina ok rak skipit út á leirur, ok búit viþ skipbroti; varþ ek þá at selja Hrafni sjálfdœmi ok hinum galt ek mǫrk, ok eru slíkar mínar at segja frá honum.“ Ok þá var þeim talat um Helgu, ok lofaþi Hallfreþr vænleik hennar. Gunnlaugr kvaþ þá:

9. Monat háþvǫrom hyriar
hríþmundaþe þundar
hafnar hǫrve drifna
hlýþa Iǫrþ at þýþask;
þvít lautfiskiar lékom
lyngs, es vǫrom yngre,

alnar gims á ýmsom
andnesiom því lande.

Þetta er vel ort, segir Hallfreþr.

**Kap. 10.** Þeir tóku land á Melrakkasléttu hálfum mánaþi fyrir vetr, þar sem hét í Hraunhǫfn, ok skipuþu þar upp.

Þórþr hét maþr; hann var bóndason einn þar á Sléttu; hann gekk í glímur mjǫk viþ þá kaupmennina, ok gekk þeim illa viþ hann. Þá var komit at því, at Gunnlaugr skyldi glíma viþ hann. Ok um nóttina áþr hét Þórþr á Þór til sigrs sér, ok um morgininn, er þeir glímdu, laust Gunnlaugr báþa fœtr undan Þórþi ok fell hann mikit fall; en fótr Gunnlaugs stǫkk ór liþi, sá er hann stóþ á, ok fell hann. „Vera má at þér vegni eigi annat betr“, segir Þórþr. „Hvat þá?“ segir Gunnlaugr. „Málin viþ Hrafn Ǫnundarson, er hann fær Helgu ennar vænu at vetrnóttum; ok var ek hjá í sumar á alþingi, er þat réz.“ Gunnlaugr svarar øngu. Var þá vafinn fótr hans, at í liþ fœri, ok þrútnaþi allmjök. Þeir Gunnlaugr ok Hallfreþr fóru af Sléttu viku fyrir vetr, tólf saman, ok kómu svá til Gilsbakka þat sama laugarkveld, er þeir sátu at boþinu at Borg. Illugi varþ feginn Gunnlaugi, syni sínum, ok hans fǫruneyti. Gunnlaugr kvaz þá vilja fara ofan til Borgar. Illugi kvaþ þat ekki ráþ, ok svá sýndiz ǫllum nema honum; en Gunnlaugr var þá úfœrr fyrir fótarins sakir, þótt hann léti ekki á sjáz, ok varþ því ekki af ferþinni. Hallfreþr reiþ heim um morgininn til Hreþuvatz í Norþrárdal; þar réþ fyrir eignum þeira Galti, bróþir hans.

**Kap. 11.** Nú er at segja frá Hrafni, at hann sitr at boþi sínu á Borg, ok er þat flestra manna sǫgn, at brúþrin væri dǫpr; er þat satt, sem mælt er, at lengi man þat, er ungum getr; nú ferr henni ok svá. Þá varþ þat til tiþinda, at sá maþr baþ Húngerþar, Þóroddz dóttur ok Jófríþar, er Svertingr hét, ok var Hafr-Bjarnarson, Molda-Gnúpssonar, ok skyldu þau ráþ takaz eptir jól um vetrinn uppi at Skáney. Þar bjó Þorkell, frændi Húngerþar, son Torfa Valbrandzsonar. Móþir Þorkels var Þórodda, systir Tungu-Oddz. Hrafn fór heim til Mosfellz meþ Helgu, konu sína;

ok er þau hǫfþu þar skamma stund verit, þá var þat einn morgin, áþr en þau risi upp, at Helga vakþi, en Hrafn svaf ok lét illa í svefni. Ok er hann vaknaþi, sagþi hann Helgu, hvat hann hefþi dreymt; Hrafn kvaþ:

10. Hugþomk orme at arme
ýdǫggvar þér hǫggvenn;
være beþr í blóþe,
brúþr, þínn roþenn míno;
knættet endr of under
ǫlstafns Niǫron, Hrafne
líkn getra þat, lauka
lind, hagþyrnes binda.

Helga mælti: „Þat mun ek aldri gráta, ok hafi þér illa svikit mik, ok mun Gunnlaugr út kominn;" hon grét þá mjǫk. Ok litlu síþar fréttiz útkváma Gunnlaugs. Helga gørþiz svá stór, at Hrafn fekk ekki henni haldit heima, ok fara þau þá inn til Borgar, ok neytir hann lítit af henni. Nú búaz menn til boþs eptir um vetrinn. Þorkell frá Skáney býþr Illuga svarta ok sonum hans. Ok er Illugi bjóz, sat Gunnlaugr í stofu ok bjóz ekki. Illugi gekk til hans ok mælti: „Hví býz þú ekki?" Gunnlaugr mælti: „Ek ætla eigi at fara." Illugi mælti: „Fara skaltu víst, frændi, ok slá ekki slíku á þik, at þreyja eptir eina konu; lát, sem þú vitir eigi; þat er karlmannligt, ok mun þik aldri konur skorta." Gunnlaugr gørþi, sem faþir hans mælti, ok kómu menn til boþsins; var þeim Illuga ok sonum hans skipat í ǫndvegi, en Þorsteini Egilssyni ok Hrafni, mági hans, ok sveitungum brúþgumans í annat ǫndvegi gegnt Illuga. Konur skipuþu pall, ok sat Helga en fagra hjá brúþi ok þau renduz opt augum til, Helga ok Gunnlaugr, ok kom nú at því, sem mælt er, at ekki leynir auga, ef ann kona manni. Gunnlaugr var þá vel búinn, ok hafþi klæþi þau, er Sigtryggr konungr gaf honum, ok þótti hann þá mikit afbragþ annarra manna fyrir afls sakir, vaxtar ok vænleiks. Lítil var gleþi manna at boþinu. Ok þann dag, er menn váru í brottbúningi, þá brugþu konur gǫngu sinni ok bjogguz. Gunnlaugr gekk

þá til Helgu, ok tǫluþuz lengi viþ, ok þá kvaþ Gunnlaugr vísu:

11. Ormstungo varþ enge
allr dagr und sal fialla
hœgr, síz Helga en fagra
Hrafns kvánar réþ nafne;
lítt sá hǫlþr enn hvíte
hiǫrþeys, faþer meyiar,
— gefen vas Eir til aura
ung — viþ mínne tungo.

Ok enn kvaþ hann:

12. Væn ák víst at launa,
víngefn, fǫþor þínom,
— fold nemr flaum af skalde
flóþhyrs — ok svá móþor;
þvít gørþo Bil borþa
bæþe senn und klæþom;
hverr hafe hǫlþs ok svarra
hagvirke svá fagra?

Ok þá gaf Gunnlaugr henni skikkjuna Aþalráþsnaut, ok var þat en mesta gørsimi. Hon þakkaþi honum vel. Síþan gekk Gunnlaugr út, ok váru þá komnir hestar margir í túnit. Gunnlaugr hljóp á bak einum hesti ok reiþ ákafliga um túnit ok þangat at, er Hrafn stóþ fyrir, svá at hann varþ at opa undan. „Hví opir þú, Hrafn, segir hann, fyrir því at ønga ógn býþ ek þér at sinni? en þú veizt, til hvers þú hefir gørt.“ Hrafn kvaþ þá:

13. Samera okkr umb, eima,
Ullr beinfluga, Fullo,
fræger fólka Sǫ́go,
fangs í brigþ at ganga;
miǫk 'ro margar slíkar,
morþrunnr, fyr haf sunnan
— ýter es sævar Sóta
sannfróþr — konor góþar.

Gunnlaugr mælti: „Vera má, at svá sé, at margar sé slíkar, en eigi þykki mér svá.“ Þá hljópu þeir Illugi ok Þorsteinn at ok vildu ekki, at þeir sættiz viþ. Gunnlaugr kvaþ þá vísu:

14. Gefen vas Eir til aura
armdags en litfagra
— þann kveþa menn, né minna,
mínn iafnoka — Hrafne,
allra nýztr meþan austan
Aþalráþr farar dvalþe
— því's menrýre minne
málgráþr — í gný stála.

Eptir þetta riþu hvárirtveggju heim, ok var alt tíþindalaust um vetrinn, ok nýtti Hrafn ekki þaþan af ástum viþ Helgu, er þau Gunnlaugr hǫfþu fundiz.

Ok um sumarit riþu menn fjǫlment til þings: Illugi svarti ok synir hans; Þorsteinn Egilsson ok Kollsveinn, son hans; Ǫnundr frá Mosfelli ok synir hans; Svertingr Hafr-Bjarnarson. Skapti hafþi þá enn lǫgsǫgn. Einn dag á þinginu, er menn gengu til lǫgbergis, ok þar var lokit at mæla lǫgskilum, þá kvaddi Gunnlaugr sér hljóþs ok mælti svá: „Er Hrafn Ǫnundarson hér?“ Hann kvez þar vera. Gunnlaugr mælti: „Veiztu, at þú hefir fengit heitkonu minnar ok dregit til fjándskapar viþ mik; nú fyrir þat vil ek bjóþa þér hólmgǫngu hér á þinginu á þriggja nátta fresti í Øxarárhólmi.“ Hrafn svarar: „Þetta er vel boþit, sem ván var at þér, segir hann, ok em ek þess albúinn, þegar þú vill.“ Þetta þótti ilt frændum hvárstveggja, en þat váru lǫg í þann tíma, at bjóþa hólmgǫngur, sá er vanhluta þóttiz orþit hafa fyrir ǫþrum. Ok er þrjár nætr váru liþnar, bjogguz þeir til hólmgǫngu, ok fylgþi Illugi svarti syni sínum til hólms meþ fjǫlmenni, en Skapti lǫgsǫgumaþr meþ Hrafni ok faþir hans. En er Gunnlaugr gekk út í hólminn, kvaþ hann vísu:

15. Hér emk út á eyre
alvangs búenn ganga
— happs unne guþ greppe —

gørt meþ tognom hiǫrve.
Hnakk skal'k Helgo lokka,
— haus vinnk frá bol lausan
lóks — meþ liósom mæke
liúfs velgs í tvau kliúfa.

Hrafn svarar ok kvaþ þetta vísu:

16. Veitat greppr, hvárr greppa
gagnsæle hlýtr fagna;
hér 's bensigþom brugþet,
búen 's egg í legge;
þá mon, ein ok ekkia
ung, mær — þót vit særemsk —
þorna spǫng at þinge
þegns hugrekke fregna.

Hermundr helt skildi fyrir Gunnlaug, bróþur sinn, en Svertingr Hafr-Bjarnarson fyrir Hrafn. Þrim mǫrkum silfrs skyldi leysa sik af hólmi, er sárr yrþi. Hrafn átti fyrr at hǫggva, er á hann var skorat; hann hjó í skjǫld Gunnlaugs ofanverþan, ok brast þegar í sundr sverþit undir hjǫltunum ok kom á kinn Gunnlaugi, ok skeindiz af. Þá hljópu frændr þeira þegar á millum ok margir aþrir. Gunnlaugr mælti: „Nú kalla ek, at Hrafn sé sigraþr, er hann er slyppr.“ „En ek kalla, at þú sér sigraþr, segir Hrafn, er þú ert sárr orþinn.“ Gunnlaugr var þá reiþr mjǫk ok kvaþ þá ekki reynt hafa. Illugi faþir hans kvaþ þá eigi skyldu meir reyna. Gunnlaugr mælti: „Þat munda ek vilja, faþir minn, at vit Hrafn mœttimz svá annat sinn, at þú værir fjarri, at skilja okkr.“ Ok viþ þetta gengu menn til búþa. Ok annan dag í lǫgréttu var þat í lǫg sett, at af skyldu takaz hólmgǫngur hér á Íslandi, ok var þat ráþ allra enna beztu manna. Þessi hefir 'verit síþast framin hólmganga hér á Íslandi, er þeir Gunnlaugr ok Hrafn bǫrþuz. Ok er morginn er komin, gengu þeir Gunnlaugr ok Hermundr at Øxará ok þvá sér; þá gengu ǫþrum megin at ánni konur margar, ok var þar Helga en fagra í liþi. Hermundr mælti til Gunnlaugs: „Sér þú konurnar ok

Helgu, vinkonu þína, hér fyrir handan ána?" Gunnlaugr svarar: „Sé ek hana víst;" ok kvaþ vísu:

17. Alen vas rýgr at róge,
— runnr olle því gunnar;
lág vask auþs at eiga
óþgiarn — fira barnom.
Nú's svanmærrar, svíþa
svǫrt augo mér, bauga
lands til lýsegunnar
lítel þǫrf·at líta.

Síþan gengu þeir yfir ána, ok tǫluþuz þau Helga viþ ok Gunnlaugr um stund. Ok er þeir gengu aptr yfir ána, stóþ Helga ok starþi lengi eptir Gunnlaugi; hann kvaþ vísu:

18. Brámáne skein brúna
brims af liósom himne
Hristar hǫrve glæstrar
haukfránn á mik lauka;
en sá geisle sýsler
síþan gollmens Fríþar
hvarma tungls ok hringa
Hlínar óþurft mína.

Eptir þetta riþu menn heim af þingi, ok var Gunnlaugr heima á Gilsbakka. Ok einn morgin, er hann vaknaþi, þá váru allir menn upp staþnir nema hann. Þá gengu inn tólf menn í skálann, alvápnaþir, ok var þar kominn Hrafn Ǫnundarson. Gunnlaugr spratt upp þegar ok gat fengit vápn sín. Þá mælti Hrafn viþ Gunnlaug. „Þat er ørindi mitt higat, þú skalt heyra. Þú bautt mér hólmgǫngu í sumar á alþingi, ok þótti þér sú ekki reynd verþa; nú vil ek bjóþa þér, at vit farim báþir utan í sumar, ok gǫngum á hólm í Noregi; þar standi eigi frændr okkrir fyrir." Gunnlaugr mælti: „Mæl þú drengja heilastr; þenna kost vil ek, ok er hér at þiggja, Hrafn, meþ oss þann greiþa, sem þú vill." (Hrafn svarar: „Þat er vel boþit, en ríþa munu vér fyrst at sinni;" ok viþ þetta skilþu þeir. Þetta þótti frændum hvárstveggja þeira stórum illa, en fengu þó

ekki at gørt fyrir ákafa þeira sjálfra, enda varþ þat fram at koma, sem til dró.

**Kap. 12.** Nú er 'at segja frá Hrafni, at hann bjó skip sitt í Leiruvágum. Tveir menn eru þeir nefndir, er fóru meþ Hrafni, systursynir Qnundar, fǫþur hans; hét annarr Grímr, en annarr Óláfr, ok váru báþir gildir menn. Qllum frændum Hrafns þótti mikill svipr, er hann fór í brott; en hann sagþiz því Gunnlaug á hólm skorat hafa, at hann kvaz engar nytjar hafa Helgu, ok kvaþ annanhvárn verþa at hníga fyrir qþrum. Síþan sigldi Hrafn í haf, er þeim gaf byr, ok kómu skipi sínu í Þrándheim, ok var þar of vetrinn ok frétti ekki til Gunnlaugs á þeim vetri, ok þar beiþ hann Gunnlaugs um sumarit; ok enn annan vetr var hann í Þrándheimi, þar sem heitir í Lifangri.

Gunnlaugr ormstunga réz til skiþs meþ Hallfreþi vandræþaskáldi norþr á Sléttu, ok urþu þeir síþbúnir mjǫk ok sigldu þeir í haf, þegar byr gaf, ok kómu viþ Orkneyjar litlu fyrir vetr. Sigurþr jarl Hlǫþvisson réþ þá fyrir eyjunum, ok fór Gunnlaugr til hans um vetrinn, ok virþi jarl hann vel. Ok um várit bjóz jarl í hernaþ; Gunnlaugr bjóz til ferþar meþ honum, ok herjuþu um sumarit víþa um Suþreyjar ok Skotlandzfjǫrþu ok áttu margar orrostur, ok reyndiz Gunnlaugr enn hraustasti ok enn vaskasti drengr ok enn harþasti karlmaþr, hvar sem þeir kómu. Sigurþr jarl sneriz snimmendis sumars aptr, en Gunnlaugr sté þá á skip meþ kaupmǫnnum þeim, er sigldu til Noregs, ok skilþu þeir Sigurþr jarl meþ mikilli vináttu. Gunnlaugr fór norþr til Þrándheims til Hlaþa á fund Eiríks jarls, ok var þar ǫndverþan vetr, ok tók jarl vel viþ honum ok bauþ honum meþ sér at vera, ok þat þekþiz hann. Frétt hafþi jarl viþskipti þeira Hrafns, svá sem var, ok sagþi Gunnlaugi, at hann legþi bann fyrir, at þeir berþiz þar í hans ríki. Gunnlaugr kvaþ hann slíku ráþa mundu, ok var Gunnlaugr þar um vetrinn ok jafnan fálátr. Ok um várit einn dag gekk Gunnlaugr út, ok Þorkell frændi hans meþ honum; þeir gengu í brott frá bœnum ok á vǫllum, fyrir þeim var mannhringr, ok í hringinum innan váru tveir menn meþ vápnum ok skylmþuz; var þar annarr nefndr Hrafn, en

